# Ættartal og Æfisaga

## Finns Jónssonar

S. S. Theologiæ Doctoris, og Biskups yfir Skálholts Stipti.

Upplesin vid hanns jardarför ad Skálhollte, dag 6. Augusti 1789.





Kaupmannahöfn, 1792.
Prentad hiá Jóhann Rúdólph Thiele.



Fader sáluga Biskupsins Doctor Finns Jónssonar var sá hálærde og nafnfræge Officialis Skálhollts Stiftis, Prófastur og Prestur ad Hytardal Síra Jón, sonr Prófastsens í Hverár-þínge, Síra Halldórs í Reykhollte, sonar Síra Jóns í Reykhollte, Bodvarssonar, Prófasts og Prests í Reykhollte, Jónssonar, Prófasts og Prests samstadar; var sá Síra Jón bródir þess fyrsta Evangeliska Biskups í Skálhollte Gitzurar Einarssonar, Sigvalldasonar Lángalifs. Kvinna Prófastsens Síra Bodvars í Reykhollte, var Steinun Jónsdóttir, Sigurdssonar frá Búdardal, Oddssonar, Sigurdssonar á



Hvole, Geyrmundarsonar; og var sú ætt með þeim stærstu á Vestfiordum um þær mundir. Fyrrnefnd Steinun var fødur, syster Halldórs Løgmanns Olafssonar; enn kvinna Jóns Sigurdssonar var Margret, dóttir Eiríks frá Asgarde, Gudmundssonar, Andressonar, Gudmundssonar hins Ríka á Reykhólum, hvers ættleggur seinna verdur talen; enn móder Margretar, og qvinna Eiríks Gudmundssonar var Gudrun Gunnlaugsdótter, Teitssonar hins Ríka á Biarnanese. Kvinna Sigurdar Oddssonar í Búdardal var Steinun Sturladotter, systir Orms Løgmanns; var móder hennar Gudlaug, dótter Finnboga Løgmanns, Jónssonar Prests á Grenjadarstad, Pálssonar, er lenge var í Hyrdstióra stad, Þorvardssonar. Móder Finnboga Løgmanns var Þórun, dótter Finnboga hins Gamla í Ase í Kelduhverfe, Jónssonar Lángs; enn húsfreya Finnboga Løgmanns var Málm-

frídur,





fríður, dótter Torfa Riddara og Hyrd-stióra Arasonar, og Akra-Christínar, dóttur Þorsteins Lögmanns Olafssonar. Móder Steinunnar Sturladóttur var Gud-finna, syster þeirra nafnfrægu hofdíngia Gudna í Ögre, Páls á Skarde, og Síra Sigurdar í Hytardal, voru þau börn Jóns Asgeirssonar og Christínar Gudnadóttur, Oddssonar Lögmanns Lepps, Þórdar-sonar. Enn egtakvinna Gudna Oddsson-ar var Þorbiörg Gudmunds dóttir, systir Rafns Lögmanns og Ara hins Ríka, hvers fyrr var gétid.

Kvinna Síra Jóns Bödvarssonar í Reykhollte var Cecelia Torfadótter; Prests ad Gilsbacka, og Margretar Aradóttur frá Fitium, var Síra Torfi bróder Síra Jóns Þorsteinssonar, píslarvotts í Vest-mannaeyum; enn Móder þeirra Brædra var Asta Eiríksdótter, Prests frá Reyk-hollte, Jónssonar, Þórdarsonar hins Ríka frá Borg. Egtakvinna Jóns Þórd-

 arsonar



arsonar var Raguhilldur dótter Einars Hyrdstióra á Hofstodum, Þórólfssonar, og Katrínar dóttur Halldórs Abóta á Helgafelle Ormssonar. Egtakvinna Prófastsens Sira Haldórs í Reykhollte, var Holmfrídur, kollud Prófasta-móder Hannesdóttir, þess er lenge var Løgsagnare í Arneß Sýslu, Hèlgasonar, Eyólfssonar. Egtakvinna Eyólfs Helgasonar var Cecelia Olafsdótter, Narfasonar Ivarssonar af Ogurs ætt; egtakvinna Olafs var Solveig Biarnadótter, Andressonar, Gudmundssonar hins Ríka á Reykhólum, sem fyrr var nefndur: enn egtakvinna Biarna var Gudrún Biornsdótter frá Ogre, Gudnasonar, hvers fyrr var géted, og Þóru dóttur Biorns hins Ríka í Vatnsfirde, Þorleifssonar, og Vatnsfiardar-Christínar, dóttur Biorns Riddara Jórsalafara, hver ættleggur upp til fyrstu Landnámsmanna er álkunnur. Egtakvinna Biorns Gudnasonar í Ogre var Ragn

hilldur

hilldur Biarnadóttir, og Ragnhildar Þorvardsdóttur á Mødruvøllum Loptssonar hins Ríka Riddara, Guttormssonar. Móder Ragnhilldar Þorvardsdóttur á Mødruvøllum var Margret, dótter Vigfúsa Holm, Hyrdstióra, Ivarssonar. Holm, ogso Hyrdstióra. Egtakvinna Hannesar Helgasonar var Ragnhilldur Dadadótter frá Felle á Medalfells-strønd, (sem nú almennt kallast á Stadarfelle) Jónssonar á Svarfhóle í Laxárdal, Olafssonar Prests í Hiardarhollte, Gudmundssonar á Felle í Kollafirde, Andressonar, Gudmundssonar á Reykhólum hins Ríka, Arasonar hins Ríka, Gudmundssonar. Egtakvinna Gudmundar á Reykhólum var Helga Þorleifsdótter Hyrdstióra Biørnssonar hins Ríka í Vatnsfirde. Móder Þorleifs, enn egtakvinna Biørns í Vatnsfyrde var Oløf, dótter Lopts Ríka á Mødruvøllum, enn móder Jardþrúdar var Ingvelldur Hellgadótter Løgmanns,

 Ejolfs-



Ejolfssonar, og Akra-Christínar Þorsteins-dóttur, Logmanns Olafssonar, hvers fyrr var getið. Móðir Jóns á Svarfhóle var Ingerídur Gudmundsdóttir, er var syster Dada bónda í Snóksdal, enn egtakvinna Jóns Olafssonar var Gudrún, dóttir þess nafnfræga hofdíngia Arna á Hlídarenda, hver ættleggur er alkunnugur. Egta-kvinna Dada Jónssonar á Felle á Fells-strønd, var Cecelia Asmundsdóttir, Þor-leifssonar Logmanns á Skarde, Pálsson-ar, Jónssonar, Asgeirssonar, hvers ætt-leggur ádur er talinn. Móðir Þorleifs Logmanns, enn kvinna Páls á Skarde var Solveig, dótter Biorns Ríka í Vatns-firde og Olufar Loptsdóttur hins Ríka á Modruvollum, hverra ættir fyrr eru tald-ar. Egtakvinna Asmundar Þorleifs-sonar var Hólmfrídur Erlendsdótter á Stórólfshvole, Jónssonar Skálds og Sýslumanns í Rángárþínge, Hallssonar. Móðir Erlendar var Hólmfrídur Erlends-

dótter

dóttir Lögmanns Erlendssonar af Kolbeinstada ætt. Egtahústru Erlendar var Gudrídur Þorvardardóttir frá Mödruvöllum, Loptssonar hins Ríka, og Margretar Vigfúsdóttur Holm Hyrdstióra. Egtakvinna Erlendar Jónssonar var Emerentiana Þorleifsdóttir Prests á Breidabólstad í Fliótshlíd, Eiríkssonar frá Ase í Holltum, bródur Sæmundar í Ase, og Síra Jóns í Vatnsfirde, er í þær mundir aller voru í mestu hofdíngia tolu hér á lande.

Egtakvinna Officialis og Prófasts Síra Jóns Halldórssonar í Hýtardal, var sú nafnfræga forstands og dygda kona Sigrídur Biornsdótter, Prests á Snæfuglsstodum, Stephánssonar Prests á Seltiárnarnese, Hallkielssonar Prests samastadar, Stephánssonar Prests í Laugardælum. Módir þessa Síra Stepháns var Valgerdur, dóttir Gudmundar Jónssonar, bródur Stepháns Biskups í Skálhollte. Egtakvinna Síra Stepháns Hallkelssonar



var Ulfhildur dóttir Jóns Oddsſonar í Reykiavík, og Þórdíſar dóttur Henriks Gerken, Hannesſonar, Þydſks manns, er héllt Þíngeyra klauſtur. Egtakvinna Henriks Gerken var Jardþrúdur Biarnadóttir, Sumarlidaſonar, Jónsſonar, er átte Ragnhillde, dóttur Asmundar Jónsſonar, bródur Stephåns Biſkups, er fyrr var nefndur. Egtakvinna Biarna Sumarlidaſonar var Gudrun dóttir Gudmundar á Felle í Kollafirde, Andresſonar, Gudmundsſonar hins Ríka á Reykhólum, hvers ad undanförnu opt hefir vered getid. Egtakvinna Sfra Bioerns Stephánsſonar á Snæfuglſtødum var Hilldur, dóttir Hogna á Gufuneſe, Sigurdsſonar, Núpsſonar.

Þetta allt ſýner, ad eitt af því morgu er prydde vorn ſæla Biſkup, var ættgøfge, hver ad ſonnu gorir ey neinn at betre edur af ſiálfs eginlegleikum verdugre, og á þarí ſammerkt med øllum útvortis lukkunnar gædum; enn þá allt, edur fleſt annad prýder

der eina manneskiu, þá er góð og göfug ætt vissulega heidurleg Guds gáfa, sem opt gefur tækefære, enn ætíð upporfun til, að ná og stunda epter hefð og sóma, með að kappkosta að gánga þann veg sem hefir leidt forfedurnar til sannrar æru, lukku og metorda; þennan veg gekk vor hásæle Biskup, frá vöggunne til grafarennar, sosem augliót er af epterfylgiande hanns æfesögu:

Sáluge Biskupenn Doctor Finnur Jónson er fæddr að Hýtardal, þann 16 Januarii 1704 hvar hann uppólst, til þeß hann var 18 ára gamall, var hann þá settur í Skálhollts skóla 1722, under tilsøgn þá verande Rectoris Erlendar Magnússonar, er síðan vard Prestur í Odda; epter 2 ára skólaveru várd vor sæle Biskup dimitteradur, og hafde þá svo hegdad ser, og þegar á sér sýnt það háttalag með þeirre dygda lærdóms og mannkosta byrian, að sál. Biskupinn Mag. Jón Arnason, hinn geip-minste og lofsparaste, enn undereins

vitrasti



vitraste madur, gaf hønum þann vitnis-
burd, ad hann vissulega yrde lukkumadur.
1725 reiste Biskupenn sál. til Kaupmanna-
hafnar, og vard þar Universitets borgare
enn fór fyrst til Glückstadar, Hamborgar,
Altonar, og sídan landveg yfir Holstein,
Jytland, Fión og Selland. Í Kaup-
mannahøfn vard hann bæde alumnus Com-
munitatis Regiæ, og sídan Collegii Eler-
siani, hvar hann hafde herbergis félag med
þeim lærda og nafnfræga Jurista Christi-
ano Stub, er sídan vard Løgmadur í
Bergen, hvers gódmensku, lærdómi og
vinskap til sín sál. Biskupinn jafnan hró-
sadi þá so bar undir. Vid Universitetet
naút hann sérlegrar hylle og bestu ráda þess
ódaudlega Professoris, sídann Etatsráds,
Grams, og síns landsmanns Assessoris
Arna Magnússonar, hver daglega hafde
þennann únga mann í húse sínu til vid-
rædu, og játade vor sál. Biskup, ad frá
samtale vid þessa tvo nafnfrægustu menn,
hefde

hefde hann aldreigi ſkilid ſo, ad hann hefdi ei eitthvad gott numed. I Theologien hafde hann kennefedur þá merkilegu Theologos Confeſsionarium Lintrup, og Profeſſor Steinbuch, enn einkum Profeſſor Kisbye, hvered elſkade og ad ſér tók vorn ſál. Biſkup, eins og eginn ſon ſinn; med þeßara handleidſlu, og ſífelldre óþreytanlegre koſtgiæfne ávann ſál. Biſkupinn ſér í Examine Theologico hid ſtærſta velforþienta hrós og characterem Laudabilem. I Kaupmannahafnar ſtóra elldsbruna 1728, miſti hann meſtann hluta ſinna bóka og klæda, einaſta þeßvegna, ad hann gaf ſig allann vid ad biarga ſins velgiørdamanns Aſſeſſor Arna Magnúsſonar ſtóra Bibliotheqve úr eldsbálenu, ſýnde ſál. Biſkupenn þá ſem ætíd 'endrarnær, ad hann mat almennings gagn meir enn ſitt eged, og leid gladur ſkada á ſiálfs ſíns eigum til þeß ad lærdómurenn efldeſt, og epterkomendunum være ad borgnara. 1729 reiſte vor ſæle

Biſkup



Biskup aptur til fødurlandsens, og hellt áfram sínum lærdóms idkunum í fødurhúsum allt til 1732, þá Reykhollts Prestakall vard lidugt, fyrer tímanlegan dauda hanns fødurbródur sál. Prófasteus Hannesar Halldórssonar. Var um þær mundir ein sú inntektamesta sýsla lidug, sem epter þeirrar alldar sid var vorum hásæla Biskupe líklegt embætte. Fader hánns var þá og hnígin á efra aldur; svo þad góda Hýtardals braud sýndest ad lada til sín hanns eldra hálærda son; enn þar á mot, epter tímanlegum munum ad reikna, sýndest Reykhollt ekkert hafá þeß til ad bera, sem jafnast kynne móte hanns þá hafande von og forþenustum, einkum þar hanns sál. fødurbródir hafde epterlátid mikla omegd módurlausra ungbarna og karlægra gamalmenna, sem hann svo nákildur talde sér vissa von ad mega taka til forsorgunar, ef hann tæke þad prestakall; enn þetta, sem ad líkendum hefde hellst

hellst fráfælt hvern annan, og þarmed ráð hanns kiæru forelldra, sem óskudu bróðurbörnum sínum þeßarar ágiætu aðstoðar, knúðe hann til þeß er sýndest hanns tímanlegre lukku gagnstæðast, hann tók Reikhollt, vígðest þángað til Prests sunnudagen í Fostu inngáng 1732, og varð strax þar epter Prófastur í Þverár-þinge, sunnan Hvítar, svo hanns embættis alldur í Prests og Prófastsdæme var hinn same. Í þeßum embættum þiónaðe hann með svo stórre trúmensku og dygð, að hann ávann allra elsku og virdíngu, álitu sýslupreStar og sóknarfólk hann sem foður, hann elskaðe þá líka og annaðest, hvarum raun bar vitne 1746 þá honum var boeð eitt hið inntektamesta Prestakall, afþackaðe hann það með auðmykt, viliande ei skilia við þá hiorð sem hann var búenn að giora vel síðaða og sér einelska, og sem honum var hiartfólgenn. Í Stiftesens synodo generali voru optast þau lok allra mála er

honum



honum ſÿnduſt ſanngiarnleguſt; var hanns ſkynſeme, lærdómur og rettlæte ſvo alþeckt, ad hann á ſtundum var einn útvalenn til ad greida vandamál til forlſkunar, edur annara gódra úrræda. Sálugi Biſkupinn Mag. Jón Arnaſon áleit þá þegar vorn háſæla Biſkup fyrir þann ſem víſt yrde Biſkup epter ſína daga, og þá Hóla Biſkups ſtóll vard lidugur 1739, enn eige fáer meirehattar Prófaſtar og Preſtar ſóktu um þad embætti, ſkrifade ſál. Biſkupenn Mag. Jón Arnaſon fram fyrer Kóngenn, ad þeir ſæktu um þetta embætte, er midur væru til þeß fallner; enn ſá eine ſækte eige, ſem þar til være beſt kiörenn, ſem være Prófaſturenn í Þverár-þínge fyrer ſunnan Hvítá Síra Finnur Jónsſon; er þad vandt ad ſegia, hverium þeßara ſtóru manna þetta ſé til meire æru, þeim ſem ſér óvitande var ſvo ſanngiarnlega lofadur, edur hinum ſem án allrar vildar og vinattu bar þegiande forþenuſtum ſvo ſkorug-

legt

legt vitne. Epter andlát sál. Biskupsens Mag. Jóns Arnasonar 1743 var vor hásæle Biskup skickadur stiptisins Officialis eda stiptprófastur: aptur 1745, þá Biskup og General Kirkna-Visitator Harboe reiste frá landenu: og í þridia sinne 1753 epter tímanlegan dauda sál. Biskupsens Olafs Gíslasonar, þiente hann þok sama embætte, svo eingenn hér á lande hefir svo opt stiptesens ædstu umsión á hende haft sem hann. Þegar Biskupenn í Hóla-stipte sál. Halldór Brynjólfsson á sinne reisu til Kaupmannahafnar andadest áred 1752, feck vor hásæle Biskup befalníngu ad reisa þángad, þar Kóngurenn hafde tilnefnt hann ad verda Biskup Hóla stiptes. Enn þá hann þángad kom, frettest andlát Biskupsens í Skálhollts stipte sál. Olafs Gíslasonar, var vor hásæle Biskup þá af Kóngenum í hanns stad settur, og tók af Biskupe Mag. Hersleb biskups vígslu þann 28. Aprilis, sem var 2. sunnudagur epter

 

Páſka 1754, var hann ſá ſeinaſte Biſkup er þeße ſtóre mælſkumadur Biſkup Herßleb vígde. Medan vor háſæle Biſkup í þad ſinn dvalde í Kaupmannahøfn, utverkade hann med ſinne medalgaungu Preſtum Skálhollts ſtiptes þann konúnglega velgiørníng, ſem um aldur og æfe mun uppe vera, ad Konúngurenn af nád ſinne ſkeinkte fátækuſtu Preſtum ſtipteſens 200 rdl. kronur árlega, hvers velgiørníngs þeir enn í dag nióta. Ad upptelia hér allt þad merkilegt, ſem hann giørde í Biſkups embættenu, vilde koſta oflángan tíma. Med ſtillíngu, nærſærne, ſannſÿne, alvørugefenne hógværd og ſtadfoſtu jafnadargede, ſtiórnade hann ſvo ſtiptenu, ad guds þeckíng útbreiddeſt, catechiſationin tídkadeſt meir og meir, og var betur enn ádur innrettud; bókleſtur vard almennare; Preſtanna ſidferde ſómaſamlegra, enn þetta allt hafde vered ad undanfornu; og er þad merkelegt, ad um allann þann tíma

er

er hann hafde ædstu umsión þeßa Skálhollts stiptes, komu ein tvø mál geistlegum vidkómande under stiptesens synodi generalis dóm. Guds kyrkia efldest, byggíngar Guds húsa hellduft í gódu stande, og þeirra inntekter ríkkuduft; í einu orde: gódur Gud brúkade þeßa vors háſæla Biskups árvekne, lærdóm og stóru dygder, sosem medal í sinne hende til þeß, ad ver under því besta andlega yfervallde lifdum gódann og rólegann lifnad med gudrækne og sidseme. Um vors háſæla Biskups lærdóm voru alldrey tvímæle, ad nockur samtída være honum þarí jafn, og ad flestra, ef eigi allra, dóme, hefir land vort alldrei haft lærdare mann enn hann. Hanns mørgu og ypparlegu skrif, hver hér er oflángt upp ad telia, bera þarum liósast vitne, einkum hanns Historia Ecclesiastica Islandiæ, sem er eitt af vorrar alldar bestu og nytsomustu sagnaskrifum, hveriu Nordurálfunnar lærdóms tídenda ritarar,



hafa hver vid annann keppst ad hrósa *). Oll hin skrif sál. Biskupsens eru hvert í sinne rød ypparleg, og losa sinn meistara;

ey

*) Einkum var hanns Historia Ecclesiastica Islandiæ, Havniæ 1772-8. Vol. 4. í miklu afhallde hiá lærdustu samtídes mønnum, hvaraf serilage má nefna Geheimerád Luxdorph, Biskup R. Lowth, og Kammerherra Suhm, sem undrudust yfir, ad slikt verk svo ríkt, svo vel fyrerkomed, og orded, kynne hafa komed frá lærdóms efnum eins fiærlægu lande, og Ísland er. Hin ønnur sál. Biskupsens skrif eru:

Epistola Apologetica ad Virum Perillustrem *Johannem Erici*. 4. Havn. 17

De Prærogativa noctis præ Die, aut dubia aut nulla, 8. ibid. 178

Formále fyrer framan Rambachs Monita Catechetica, um vidleitne Íslands Biskupa, einkum í Skálholts stipte, ad framhalda barna lærdóme og catechisationinni. 12. Hólum 17

Íslands eiktamørk, prentud aptan vid Rim. beglu. 4. Havn. 178

Conspectus ministrorum status ecclesiastici præsentis in Islandia. 8. Vinar. 17

Enn nú er eptirtalid eige prentad:

ey einasta eru þau lærdum mønnum til fródleiks og yndes, helldur og lande voru til gagns og æru, sosem raun bar vitne, ad þá af misskilnínge laga vorra, og ókunnugleika í vorum sagnaskrisum árit 1767 var



Um Christinnrette Íslendínga.

Um Tíundargiørd Íslendska. Inntak úr hverú, tveggia þeßu er innfært í Historiam Ecclesiasticam Islandiæ.

Um leigu kúgillde. Ein grein þar úr prentud í Búaløgum. 8. Hrappsey, 1775.

Vitæ Sturlungorum et Haukdalensium. Þar úr lífssaga Snorra Sturlusonar, prentud framan vid Heimskringlu. Tom. 2. Havn. 177 Fol.

Anatome Bergthoriana, edr um Bergþórs Statutu.

Um Skattgialld embættes og nefndarmanna á Íslande.

Scepticismus, edur um Odin og tíma reikníng Íslendínga.

Nafnabók Nýa Testamentesens.

Utlegging yfer vønduſtu greiner og tvíræd ord Nýa Testamentesens, hafde hann byriad ſkrifa, enn eigi fullendad.



skipad ad andlegrar og veralldlegrar stettar embættesmenn skylldu eins og bændur gialldu skatt, tolla og tíunder, tóku lands-menn fyrer sig ad færa fram afbatauer, enn þar þær voru eigi svo grunduallaðar á sagnaritum, sem þurfte, kom árit 1763 nýtt bod, ad allar þeßar skylldur væru á løgum bygdar, og ættu því motmæla-laust ad greidast. Vor sæle Biskup tók sér þá fyrer ad skrifa um þetta efni frá rótum; hanns skrif lauk upp augum þeirra, sem ádur hofdu eigi þeckt hvad rétt var, og ega nú aller þeßa lands em-bættismenn, þeßa eina manns lærdóme ad þacka, ad þeim þýngslum var álett. Vor allranádugaste Kóngur, sem hefir giort sína ríkesstiórn medal annars svo margfræga, med því ad launa og heidra for-þenustur, kunne eigi láta slíkan mann af því hlutlausann, helldur, þá hanns kónglege bróder og ódaudlegur lærdóms elskare, Hanns Konúnglegu Háheit, Arfa Printz

Printz Friderich inngeck sitt hiónaband med Printzessu Sophia Friderica, skipade Hanns Kónglega Majestæt, ad þvi ráde til heidurs skylldu Doctores af allslags lærdómsgreinum innsetiast, og lærdustu monnum af tíguglegre stett leyfast adgángur til slíkra metorda, enn þann eina mann úr sínum ríkium tiltók Hanns Kónglega Majestæt sál. Biskupenn Finn Jónsson, er hann befalade ad Doctor Theologiæ skyllde verda. Veittest honum þar med sá heidur, ad vera sá fyrste Íslendskur madur er þessi nafnbót hlotnadest, og ad sá hana uppá svo hefdarlegan hátt. Svo stór, svo nytsamlegur sem vor hásæle Biskup var i sínum embættum og lærdóme, svo var hann engu minne í sínu húse, sínum lifnade, og allre umgengne; honum hlotnadest og þad yndeslegasta og besta hlutskipte, sú ad dygdum, gódgiordum og gudhrædslu nafnfræga sál. Frú Gudrídur Gísladótter, med hverre hann inngeck

 heilagt



heilagt, gledelegt og farsælt hiónaband 1734, enn mátte sem eckiumadur siá á bak henne 1766, hverrar misser hann alla sína daga þar epter syrgde. Þetta hiónaband blessade Gud med 6 børnum, øllum enn á lífe, sem voru forelldranna glede, og eru þanneg sinnar stettar og landsens pryde, sem øllum oß er alkunnugt, nefnelega, Frú Margret Finnsdótter, eckia sál. Biskupsens yfer Hóla stipte Hr. Jóns Teitssonar; Prófasturenn í Mýra-sýslu og Prestur ad Hýtardal Síra Halldór Finnsson; Presturenn ad Hruna Síra Jón Finnsson; Biskupenn þeßa stiptes Hr. Hannes Finnsson; Sýslumadurenn í Arnes-sýslu Sr. Steindór Finnsson, og Frú Ragneidur Finnsdótter, egtahustrú Hr. Vice-Logmanns Magnúsar Olafssonar; sparade vor hásæle Biskup eingann kostnad edur mædu til ad menta þau og manna, og reyndest þeim í øllu bædi dygda- og elsku-ríkur fader; hann

hafde

hafde líka þá glede, ad vita og siá af sér komenn barnaborn og barna-barna-born. Í sinne hússtiórn var hann reglusastur, adgiætenn, kostgiæfenn, greindur, hógvær og góðgiarn húsbónde; í allre umgengne audvelldur, jafnlyndur, góðfús, uppbyggelegur, rædenn og vidfelldenn. Í heimiles háttum, fyrer utann allt priál og fordilld, er hann sterklega hatadi, sómasamlegur, giætande þeß sem varanlegt, nytsamlegt og loflegt var, í hverium hellst hlut. Fæster menn þecktu betur rétta reglu góðs búskapar enn hann, hverri hann med nærgiætne og stødugre framkvæmd fylgde, blessade Gud og ríkuglega hanns efne, svo hann hafde ætíd af vid adra ad leggia, þó hann bæde fyrst á medalmáta braude hefde fiollda ómaga fram ad færa, og sídann hér á Biskupsstólnum lide stórt fiártión á hardendes árum, sem yfergengu epter ad hann fyrst var ordenn Biskup, enn þar epter hitte



hann á ymsar umbreytíngar, er mínkudu miøg Biskups launenn, kostade hann þó miklu uppá siglíngar, og mentan sona sinna. Vid yfermenn sína var hann hinn hlýdnaste og stód svo í øllum sínum embættessporum, ad þeir ætíd høfdu orsøk ad hrósa honum, enn alldrey ad ávíta. Vid alla var hann óstolltur, trúlyndur, stødugur, óhlutdeilenn, óásælenn, réttvís, fridsamur og gódgiarn. Vid þá er hann áreittu, var hann med stødugasta lánglundargede forlíkunarsamur, yferlet þeim allt er rétt dæmer, og reynde líka ad sá lét ey hanns hluta hallast. Bænrækenn og gudrækenn, lét hann ey einasta Guds ord um hønd hafa tvisar á hverium dege, fyrer sér ásamt med sínu fólke, helldur og þarad auke las daglega í Bibliunne, og alldrey let nockurn helgann dag hiálída, ad hann ei, allt fram til lífsloka, være í kyrkiunne vid Guds oppenbera þiónustugiørd, frá upphafe til enda, þegar hanns heilsa þad eigi

eigi hindrade; alldreigi var hann idiulaus, og sosem hann í sinne háu elle hafde góda sinnes og líkamans krapta, þá var hann iduglega frá morgne til kvollds eitthvad ad lesa og skrifa, skrifade hann líka gler-augnalaust, þartil hann tók sína banasótt. Á seinustu sínum æfe árum lagde hann frá ser umsorgun fyrer Biskupsdæminu, epter ad Hanns Kónglega Majestæt hafde 1777 gefed honum til adstodar í embættenu hanns elskulega son nú verande Biskupenn þessa stiptes Hr. Hannes Finnsson; tók þá vor hásæle Biskup ser fyrer hendur epter þad nockur skrif útaf h. Ritníngu, hverre idn hann óþreyttur áfram hellt, til þess 28. Junii næstlidna, þá hann til fulls tók sína banasótt, hann hafde ad sonnu dag 10 Junii orded lasenn um nockra stund, enn honum batnade þó aptur, svo hann hellt sínu ervide áfram, kvartade samt yfer minnesbrest, og ad hann giæte eigi svo stífeldt þeinkt sem hann var vanur. Frá

þeim



þeim 21. Junii dró kraptana allt meir og meir af honum, sló sér þar til landfarsótt med hósta, og sárre tilfinníngu í hósta hrydiunum, hver veikinde þá nockra stund hofdu vidhalded, var Hr. Land-Physicus Jón Sveinsson sóktur, sem þeckte ad Siúkdómurenn være ellelasleike, er munde innanskamms heimleida þann veika í hid annad líf, færde þó med ser temprande og verkstillande medøl, sem giordu sóttena tilfinníngarlitla; beid svo vor hásæle Biskup med þolenmæde þeirrar stundar, er hann lenge hafde epter þrád og þrávallt umhurad, ad leysast hér frá, til ad vera med Christo, hvad ed skede fyrer sætt og sáluhiálplegt andlát hann 23. næstlidens Julii mánadar, litlu fyrer dagmál. Verolldenn misse þar einn godann, frómann, nytsamlegann merkesmann, hvers líka fá lønd, og fáar alder opt geta frammvísad; Guds Christne einn máttarstólpa, sem bæde í lærdóme og lifnade var hennar

prýde

prýde og uppbyggíng; lærdómurenn sinn sannan elskara, og óþreyttann idkara; land vort einn sinn mesta og betsta hofdíngia, er þvi var til sóma, þad af alúd elskade, og med rádum og dád hafde framad þess sanna gagn í allann máta; stipted þann betsta, nytsamlegasta og kostgiæfnasta Biskup; børnenn þann dygdaríkasta fødur; viner og vandamenn trúfastann, einlægann, rádhollann, vitrann og gódfúsann ærumann; í einu orde: áller sakna her góds og prýdelegs hofdíngia! aller syrgia ad þeir hafa hann misst; enn hann hefir eylífa glede og fegnud hrept, epter lángt, farsællt og loflegt líf, er varade 85½ ár og 6 daga; hafde hann órded Prófastur og Prestur fyrer meir enn 57 árum, vered Biskup þessa stiptes 35 ár, og vígt 121 Presta, enn tilskickad 25 Prófasta.



H. S. E.

Vir optimus

domi et foris clariſſimus

FINNUS JOHANNÆUS

natus Hytardali, die 16. Ianuarii 1704,

Reykholtenſis cætus Paſtor 1732,

ſimulqve

Toparchiæ Borgfiordenſis Præpoſitus,

Dioeceſeos Skalholtinæ ter Officialis,

poſteaqve 1754 Epiſcopus.

Sacro ſanctæ Theologiæ, 1774, Doctor,

omnium in patria primus.

Ex fauſtiſſimo 1733 conjugio

cum

GUDRIDA GISLAI FILIA

ſex liberorum, omnium ſibi ſuperſtitum,

lætus pater

nepotes et abnepotes vidit.

Tandem ætate, honoribus et bonis

felix

Skalholti, die 23. Iulii 1789, obiit.

* * *

Vitam, res geſtas, ſcripta,

verax laudabit hiſtoria.

